

# LÖG

## HINS J. MÖLLERSKA BÓKASAFNS OG LESTRARFÉLAGS Í MÝRASÝSLU

## PRÓFASTSDÆMI.

---

REYKJAVÍK.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. E. ÞÓRÐARSON.

1860.

1.

Tilgangur fèlags þessa er, að efla bóklega menntun í prófastsdæminu, bæði andlega og veraldlega.

2.

Öllum heiðvirðum mönnum í prófastsdæminu veitist viðtaka í fèlagið — þó ekki ýngri en 18 ára — og gángast þeir þá þegar undir lög fèlagsins; sama rèttar og með sama skilyrði njóta innbúar Hnappadalssýslu og Dalasýslu vestur að Glerá, og Borgfirðingar sunnanmegin Hvítár, frá ofanverðu allt til Hafnarfjalla.

3.

Hver, sem beiðist viðtöku í fèlagið, riti þar um ósk sína til fèlagsins forseta, er þá má veita viðtöku, eða feli einhverjum fèlagsmanni á hendur, að beiðast þess sín vegna á fèlagsfundi.

4.

Árstillag sitt ákveður hver einn um leið og hann beiðist inntöku í fèlagið, eigi þó minna en 64 sk. silfurs, þó má beiðast viðtöku með 32 sk. tillagi, og fæst það ef fèlagsfundur finnur ástæðu til.

5.

Hið ákveðna árstillag skulu fèlagsmenn hafa goldið til fèhirðis innan nóvember-mánaðarloka ár hvert. Sèu tillög nokkurra enn ógreidd á næsta fèlagsfundi, þrátt fyrir aðvörun fèhirðis, er það undir fundarályktun komið, hvort þeir þá njóta fèlagsrèttinda framvegis.

6.

Fèlagsmaður hver fær bókalán, og nýtur annara fèlagsrèttinda jafnt að öllu leyti.

7.

Til að stjórna fèlaginu sèu árlega kjörnir 2 embættismenn, og 2 varaembættismenn; það eru: *forseti* og *fèhirðir*, *varaforseti* og *varafèhirðir;* enginn hafi slíkt starf á hendi ári lengur, nema hann sè kosinn að nýju. Missi forseta eða fèhirðis við, gegni varaforseti eða varafèhirðir störfum þeirra til næsta ársfundar.

8.

Hver fèlagsmaðnr er skyldur til, að takast það embætti á hendur, sem hann er til kjörinn, nema veruleg forföll hamli, og eins þó hann hafi gegnt því, eða öðru embætti fèlagsins áður.

9.

Ársfundur skal ætíð haldinn í fèlagi þessu *mánudaginn í tuttugustu og fyrstu viku sumars*. Þá fram fer kosning embættismanna, verður gjörð gild breyting á fèlagslögunum, ráðin bókakaup, og annað, sem framför og heill fèlagsins varðar.

10.

Eigi er ársfundur lögmætur, nema tala þeirra, sem fund sækja, svari þriðjúngi þeirra fèlagsmauna, sem í prófastsdæminu eru; ræður þá atkvæðafjöldi öllum úrslitum.

11.

Forseti kveður fèlagsmenn til ársfundar og stjórnar fundi að öllu leyti. Líka má forseti kalla fèlagsmenn á aukafund, þegar brýn nauðsyn krefur.

12.

Forseti hafi öll brèfleg störf á hendi fyrir fèlagið, og skal hann rita þau í þar til gjörða brèfabók, að þeim störfum undanteknum, sem fèhirðir á að gegna; líka haldi hann fundabók, í hverja rituð sèu lög fèlagsins, helztu uppástúngur og samþykktir á fèlagsfundum; þar sè þess stuttlega getið, hvað fèlagið hefir eignast af bókum ár hvert, hvernig tekjum þess hafi verið varið, og hvernig fjárhagur þess sè, samt hverjir hafi öðrum fremur hlynnt að því það árið. Báðar þessar bækur, ásamt þeirri, sem getið er í § 13, sèu útvegaðar á fèlagsins kostnað. Í hið prentaða registur yfir bókasafnið, sem raðað er eptir vísindagreinum, skal forseti einnig rita allar þær bækur, sem fèlaginu bætast á ári hverju, og skal það vera undir atkvæðum fèlagsmanna, nær endurprenta skal registrið, af hverju sèrhver fèlagsmaður fær þá eitt prentrit ókeypis. Þar að auki skal forseti semja sèrstakan lista yfir hinar nýfengnu bækur, sem skal ritaður við hver októbermánaðarlok, og sendur fèlagsmönnum með umburðarbrèfi, líka sè hann fram lagður til sýnis á fèlagsfundum, og síðan geymdur við brèfasafn fèlagsins. Að lyktum skal forseti við hver árslok senda landsins biskupi stutta skýrslu um ástand, framkvæmdir og fjárhag fèlags þessa.

13.

Fèhirðir hafi á hendi reikninga fèlagsins, hann innkalli árstillög fèlagsmanna, og gjöri grein fyrir á fèlagsfundum; í því skyni haldi hann einnig bók eina, í hverja skráð sèu nöfn allra fèlagsmanna, og útundan hvers eins nafni hans árstillag, líka skal þess þar getið, ef einhver veitir fèlaginu aukafèstyrk nokkurn, líka ritar hann í hana við hver árslok jafnaðarreikning yfir tekjur og útgjöld fèlagsins í það skiptið, og leggur hann svo eptirrit af honum fram á fèlagsfundi, og skulu 2 fèlagsmenn, sem forseti kveður til þess með ráði fundarmanna, yfirlíta það og rita þar á, hvort nokkuð sè út á að setja.

14.

Engin gjöld skal fèhirðir greiða, nema eptir ráði og skipun forseta, og skal hann í hvert sinn taka kvittun fyrir því, er hann selur af hendi, er lögð sè, sem fylgiskjal, með reikníngi hans.

15.

Bókhlöður fèlagsins sèu tvær að eins, fyrst um sinn, sín hverju megin Lángár, og sè bókunum skipt milli þeirra eptir vísindagreinum af forseta og 2 fèlagsmönnum, er hann til þess kýs.

16.

Bókaverðir fèlagsins eru 2 af fèlagsmönnum, og annast þeir bókhlöðurnar, hver á sínum stað. Bókaverðir annast um útlán bóka, og skulu semja sèrstaka skrá þar yfir á ári hverju, hverjir hafi bækurnar og hvenær að láni fengið, og leggi skrá þá fram á ársfundi. Missi bókavarðar við, ráðstafar forseti störfum hans til næsta fèlagsfundar.

17.

Enginn má hafa bækur að láni nema fèlagsmaður, og eigi fleiri en 3 bækur í senn af sömu bókhlöðu, nema það sè eitt verk í fleiri bindum, og má ekki halda þeim lengur en 12 vikur í einu, nema sèrlegar orsakir hamli, sem bókavörður álítur gildar; líka verður sá, sem bækurnar fær, að nálgast þær og skila þeim sjálfur, eða fá til þess skilgóðan og fullveðja mann í sinn stað. Ætíð skal bókum skila aptur til þeirrar bókhlöðu, hvaðan þær voru teknar.

18.

Fái bók nokkur stórskemmd í láni, má bókavörður neita henni móttöku, og skal þar um rita forseta álit sitt, en sá, er bók spilltist hjá, skal færa hana forseta, er þá nefnir til 2 fèlagsmenn að meta spjöllin, og borgar sá, er lèð var, slíkt er þeir ákveða, eða útvegar aðra jafngóða bók í staðinn.

19.

Hver sá maður, sem viðtaka er veitt í fèlagið, fær frá forseta viðtökubrèf, og fylgir því eitt prentrit af registri yfir bókasafnið og af fèlagslögunum. Jafnframt skal forseti tilkynna fèhirði og bókavörðunum nafn, stètt og heimili þess manns, og fèhirði að auki upphæð tillags hans.

20.

Heimilt er hverjum að segja sig úr fèlaginu þegar hann vill, þó skal hann gjöra það á ársfundi, eða og brèflega fyrir forseta, ekki seinna en fyrir nóvember-mánaðarlok; skýrir forseti þá aptur fèhirði og bókavörðum frá því.

21.

Hver sem flytur út fyrir ummerki þau, sem nefnd eru i § 2, er laus við fèlagið.

22.

Með lögum þessum eru af numin hin fyrri prentuðu lög fèlagsins.

Lög þessi eru gjörð og samþykkt á ársfundi hins J. Möllerska bókasafus og lestrarfèlags að Stafholti 10. september-mánaðar 1860.

*Þ. Eyjúlfsson. M. Gíslason. E. S. Einarsen. Th. E. Hjálmarsen. J. Sigurðsson. H. Bjarnason. Valdi Steindórsson.*